Ólafur Indriðason:

Hjaltalín
og
„Homöopatharnir.“

Ak. 1856.

Ólafur Indriðason. 1856.

# HJALTALÍN

og

# „Homöopatharnir“.




AKUREYRI 1856.
í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins,
hjá H. Helgasyni.

Og samt hreifir hún sig!
Galílei[1].

Í 8. árgangi Þjóðólfs, 22. blaði, hefur herra landlæknir dr. Hjaltalín í grein, sem hefur að yfirskript „Homöopatharnir", hafið upp raust sína móti mönnum þeim, sem þannig eru kallaðir í útlöndum, enn nú á íslenzku „smáskamtalæknar"[2], og fræði þeirri, sem þeir fara með: er svo að skilja á greininni, sem herra landlæknirinn gjöri þetta

[1]) Galílei var ítalskur maður (fæddur 1564), sem nú er fyrir löngu mjög frægur orðinn fyrir lærdóm hans, og margar nýar uppgötvanir í eðlisfræði, mælingarfræði og stjörnulist. En fyrir þessar nýjungar er hann kenndi og útbreiddi með ritum sínum, urðu margir uppvægir móti honum, helzt þeir, sem iðkuðu sömu vísindi, og kenndu það, er hans lærdómi var gagnstætt. Voru þessir ekki í rónni fyr en þeir fengu Galílei varpað í fangelsi, og um síðir kúgað hann þar, sjúkan og örmagna hartnær sjötugan til að apturkalla og afsverja knjefallandi öll hin nýju sannindi, sem hann hafði uppgötvað, eða fært rök fyrir og útbreitt, meðal annars þau, er Kópernikus fyr hafði komið upp með, að jörðin snerist og gengi kringum sólina; þegar hinn harmþrungni öldungur stóð upp frá eyðspjallinu, stappaði hann niður fótunum og sagði: „samt hreifir hún sig"!

[2]) Viðkunnanlegast virðist mjer að kalla „Homöopatha" meðlækna og læknisaðferð þeirra meðlækningar. Sv. Sk.

af velvild til landa sinna, að ekki láta þeir sig tæla af „eintómri hjátrú og hjegiljum“ og varist hina miklu hættu, sem þeim sje búin af „verstu eiturtegundum“, sem finnist innan um smáskamtameðölin. Engum heilvita manni mundi hugsast að neita því, að þetta væri velgjörð við Íslendinga, ef allt væri rjett og satt, sem herra landlæknirinn segir, og hjegiljurnar og hættan svo mikil, eins og hann lætur; enn bæði blærinn á grein hans, tíminn sem hún birtist á, og tilefnið, sem til hennar er, vekur því miður grun um, að höfundurinn, ef til vill, leiðist hjer ekki eingöngu af þeirri fylgislausu sannleikselsku og mannúðlegu góðgirni, sem menn höfðu rjett til að vonast eptir hjá svo upplýstum, menntuðum og að líkindum hálærðum manni. Blærinn á grein hans sýnist votta meiri ákafa enn eðlilegt er, meðan ekki er lengra komið, jafnvel nokkurn tíma hentar, þar sem við á að hafa skynsamlega sannfæringu, meiri kímni og fyrirlitning á málefninu en skeð gæti að við ætti, meðan það er ekki betur skoðað, og á þeim stað, sem nú er tekið við því að hreifa, óhrakið af öðru enn sögum þeim, er standa í greininni, og engan veginn eru einhlítar til að sannfæra þann, sem vera vill sannleikskær og vandur að röksemdum. Greinin kemur í ljós ekki fyr en í maím. 1856 eptir að Norðlendingar, ef ekki fleiri, eru að minnsta kosti í 4 ár búnir að hafa

snefil af „Homöopathíunni“, lífsalinn þar, eptir sögn, að bera upp yfir henni kvartanir sínar, og orðrómurinn af þessu floginn víðs vegar út um landið. Um allan þennan tíma hefur herra doctorinn verið hjer innanlands, hlotið fyr en nú að hafa fengið vitneskju um, hvað á seyði var, og mátti því, sem sannleiks- og föðurlandsvinur, finna fyr köllun hjá sjer til að benda löndum sínum á það, sem honum nú þykir svo varúðarvert í þessu efni. Þetta hefði verið því meiri velgjörningur, ef háskinn var mikill, sem það hefði verið stærri yfirsjón af formanni hans, er vissulega var búinn að fá vitneskju af þessu „Homöopatiska“ faraldri, að hann skyldi hverki mæla móti því, nje vara við því. Og var það mikil furða, svo ötull og árvakur sem hann annars var, bæði í því að leggja fram krapta sína, semja og senda ritgjörðir um allt land, þegar hann varð var við, að einhver háski var á ferðum. Enn herra Hjaltalín hefur þagað þangað til nú, að þeir Skírnir og Norðri minnast með mestu hægð og meinleysi á lítið eitt, sem þeim hafði fyrir eyru borið um hina „Homöopathisku“ læknafræði, og heldur enn ekki mæla henni bót. Þá verður herra landlækninum allt í einu svo hverft — og, hvernig sem því er varið, þá mun flestum óhlutdrægum mönnum virðast honum hafa orðið óeðlilega gramt við þá Skírnir og Norðra af jafnlitlu til-

efni, og að hann beiti ekki svo tilhlýðilega eða maklega því skopi, sem hann dregur að þeim fyrir sögu þeirra, einkum þegar aðgætt er, að „Homöopathían“ var ekki áður svo mikið nýmæli eða leyndardómur á Íslandi eins og hann sýnist ímynda sjer. Að minnsta kosti vita þeir, sem búnir voru að kynnast henni áður en Norðri fæddist, að það muni mismæli að hún sje „sprottin upp úr honum“ — og að það er líka óeðlilegt með faðerni Skírnis, sem er laklega þrítugur, enn „Homöopathían“ komin á sjötugs aldur, og vitanlega skroppinn út úr höfði á dr. Samúel Hahnemann, sem áður var búinn að vera læknir í 8. ár, og hefur síðan lífs og liðinn liðið ofmikið illt af embættisbræðrum sínum fyrir þetta faðerni, til þess þeir Skírnir og Norðri þurfi saklausir að uppfylla á sjer mælingu písla hans.

Það er ekki svo tilgangur þessara lína að rannsaka nákvæmlega það, sem herra landlæknirinn færir „Homöopathíunni“ til ógildis, heldur öllu fremur að benda mönnum á, hvort það, sem hann hefur sagt, geti haft fullan sannfæringarkrapt fyrir þá, sem fylgislaust líta á þetta mál, og ekki eru gagnteknir af hleypidómi móti því, ellegar fara undir eins íhugunar- og rannsóknarlaust eptir sögusögn einstakra manna, sem í stað þess að virða það rólegrar íhugunar, ýfast strax við að heyra það nefnt, og bersýnilega eru því óvinveittir.

Það er vitanlegt öllum, sem nokkuð til þekkja,

að allur fjöldi hinna reglulegu lækna, sem til aðgreiningar frá hinum vel mætti nefna stórskamtalækna, hefur frá upphafi lagt mikinn þúst á „Homöopathíuna, og þá, er með hana hafa farið. Þetta má hvorki álíta röksemd fyrir því, að fræði þessi sje byggð á vitleysu, lýgi og svikum, nje heldur ætla að allir mótstöðumenn hennar hafi verið nje sjeu illfúsir menn, sem fyrirlíti og amist við sjálfum sannleikanum. Óvild þessi hefur nógar aðrar og ofur eðlilegar orsakir; fyrst er „homöopathían byggð á grundvallarreglu, sem er gagnstæð grundvallarreglum hinnar almennu læknisfræði, þeirri nefnilega, sem herra Hjaltalín getur um, að við hafa þau meðöl í hverjum sjúkdómi, er orsaka áþekkan sjúkdóm í heilbrigðum líkama, meðan aðalreglan í eldri læknisfræðinni er: að við hafa þau meðöl er verka, sem beinast á móti sjúkdómnum, svo þegar eldri læknar brúkuðu, t. a. m. magnesíu og önnur sýru-eyðandi meðöl við magasúr, rjeði Hahnemann til að brúka ofurlítið af háþynntri brennisteinssýru, o. s. frv., og var ei að kynja þó þetta og annað þess háttar, sem í fljótu áliti sýnist fráleitt og gagnstætt skynsemi og reynslu, gjörði í fyrstu gamla og reynda lækna uppvæga. Hjer við bættist það, að Hahnemann var ákefðarmaður og óþolinn við mótsagnir, varð því mjög beiskur við þá, er risu móti honum; hallaði í ritum sínum allmjög á hina gömlu læknisfræði, sýndi

marga annmarka hennar, refsaði læknunum hlífðarlaust fyrir ýmisleg mistök, athugaleysi og villur, sem hann sakaði þá um, en þó einkum það, er honum fannst blindni og þvermóðska, að þeir nú ekki vildu gefa gaum sannindum þeim, er hann í ljós leiddi, og staðfesti með álitlegum, sumstaðar áþreifanlegum rökum, teknum af þeirra eigin læknisfræði. Á sama skeri og Hahnemann hefur flætt allt of marga af þeim, er hneigðust að fræði hans, að þeir, sem þó eins og hann villtust á stundum í ályktunum sínum og lækningatilraunum, hafa allt of freklega hallað á hina gömlu læknisfræði, og gjört sjer far um að hnýta að læknunum. Þetta hefur með fram orðið til að æsa þá upp, og brýnt þá til að vilja sigrast á mótpörtum sínum. Til þess hafa þeir og enn fleiri tilefni og freistingar: læknar hafa eins og aðrir menn tilfinning fyrir áliti sínu, og verða því gramir „Homöopathíunni" einnig fyrir þá skuld, að það sem hún vinnur í áliti, virðist að rýra álit hinnar gömlu læknisfræði og þeirra, sem hana stunda; og þetta má svíða þeim því meir, sem margir „Homöopathar" hafa lítið eða ekkert numið af þeim forspjallsvísindum, sem nauðsynleg eru til að geta gagnað til hlítar með nokkurri læknislist, og eru því í þessu tilliti sannir eptirbátar mótparta sinna. Það er og auðvitað að þar sem „Homöopathían" útbreiðist, verða færri til að leita

lækna og kaupa meðöl hjá þeim og lifsölum; þetta bakar þeim þá líka óhagnað, sem þeir geta ekki allir borið með jafnaðargeði. Loksins bætist það á, að stórskamtalæknar eru allir lögskipaðir embættismenn, sem stjórnin hefur falið á hendur og gefið rjett til að vera einir um allar lækningar; þeim er jafnvel boðið að sjá um, að ei sjeu hlaupalæknar, og undir þessu nafni innibinda lögin — hvort með rjettu eða röngu, gildir hjer „eitt og svo mikið" —, alla þá, sem ekki hafa tekið lögboðið próf í hinni viðteknu læknisfræði, eða fengið sjerstakt leyfi frá stjórninni til að fara með lækningar. Allt þetta gefur læknum fullkomnasta rjett og vald yfir „Homöopöthunum" og undir eins er þeim megnasta freisting til að vilja ríða þá ofan og útrýma þeim. — Meðan þannig stendur, og hin gamla læknisfræði með öllum anmörkum hennar getur haldið sjer á stokkunum, ekki eingöngu með nytsemi sinni og innvortis gildi, heldur í skjóli gamalla og á þessum tímum ósanngjarnra laga, lagt í einelti hvern sem hún fær óvild á, og, mitt í bitrasta skorti á nauðsynlegri læknishjálp, bælt niður allar, eins góðar og gagnlegar lækningatilraunir annara en sinna eigin löggiltu þjóna [1], þá er ekki annars að vænta en að

[1]) Nokkru áður enn Gísli læknir Hjálmarson tók embættispróf, kom hann inn frá háskólanum, og iðkaði um tíma lækningar í Austfirðingaffjórðungi, og var þá orðin svo vel

þessir þjónar hennar, sem í allan stað finna það ávinning sinn að halda henni við, muni — yfir höfuð — amast við „Homöopathíunni“ og þeim er að henni hallast. Þetta hafa þeir og gjört — að fráteknum einstökum eðallyndustu mönnum — frá því hún kom í ljós, svo þó stjórnirnar hafi sumstaðar viljað hlynna að þessum læknismáta, þegar þær, t. a. m. hafa sjeð hann heppnast einmuna vel á vinum þeirra og vildarmönnum, ellegar leiðzt til þess af þeim vitnisburði, sem hann hefur fengið hjá alþýðu, þá hafa hinir gömlu læknar því miður allt of opt komið eins og æfir uxar til að veita því mótstöðu. Þannig vildi hin franska stjórn fyrir fám árum eptir bón ekki allfárra þegna sinna, setja kennara í „Homöopathíu“ við háskólann í París; og mundi því hafa framgengt orðið, ef læknaráðið hefði ekki sett sig móti því, skotið við sínu gamla vottorði hjerumbil á þessa leið: „að Homöopathían væri eintóm hjátrú

---

að sjer í mennt sinni, að hjeraðslæknirinn, sem þá var, ljet orðljóst eptir að hann kynntist honum, að hann mundi að minnsta kosti hafa fengið aðra einkunn, ef hann hefði gengið undir próf, áður hann kom inn, eins og hann líka hafði jafnt og þjett mikla aðsókn og fjekk bezta orðstír hjá almenningi. Eigi að síður gat hjeraðslæknirinn í krapti laganna kúgað, og kúgaði hann til að gjalda sjer árlega ærna peninga fyrir það að mega í friði iðka lækningar í umdæmi hans, er hann þó hvergi nærri gat sjálfur þjónað til fullnustu.

og hjegiljur", og til að styrkja áhrif þess, ögrað stjórninni, með því að hóta í einu hljóði að leggja niður embætti sín, ef þetta færi fram. Um þær lækningatilraunir, sem dr. Hjaltalín skýrir frá að gjörðar hafi verið á hinum mikla spítala í París með Homöopatiskum meðölum, get jeg ekkert sagt; jeg hef ekki heyrt þeirra getið; það er ekki ó-mögulegt að bæði sú saga og jafnvel Tyrkjasag-an sjeu sannar að yfirvarpinu; þær geta líka báðar verið helberar lygar. Menn geta vel ímynd-að sjer, hvernig mikilsháttar mönnum, sem í tómi gátu við leikið, og ekkert mundu til spara, þar sem mikið þótti við liggja, gat verið mögulegt að hafa brögð í tafli, bæði við sjúklingavalið og til að spilla með einhverjum aðbúnaði verkun með-alanna, svo tilraunirnar hefði þann árangur, sem þeir óskuðu. Hitt er og alkunnugt, hvað opt hefur verið hallað sannleikanum í opinberum skýrsl-um um ýmsa hluti, þar sem svo rjeði við að horfa, og hvað það er bæði auðvelt og algengt að skjóta á lopt tilbúnum lygasögum, til að ná með því vissum tilgangi, þegar það þykir liðvæn-legt, og ekki er um betri meðöl að velja, hvor-ugs þessa er örvænt af þeim, sem vilja fóttroða sannleikann, og ekkert skeyta um með hvaða vopn-um þeir berjast í móti honum. Mjer finnst að sögur þessar, sprottnar frá þeim, sem eins og áð-ur er sýnt, eru bæði eðlilegir og vitanleg-

ir óvinir „Homöopathíunnar„ sanni því ekki öllu meira á móti henni, en sögusögn þeirra um upprisu Krists, sem keyptu vottana til að vitna um hvað gjört hefði verið við líkama hans á meðan þeir sjálfir (vottarnir) sváfu; eða þeirra, sem sögðu við sjálfan hann: „Segjum vjer ekki vel: þú ert samverskur og djöfull er í þjer“

Herra landlæknirinn segist eitt sinn sjálfur hafa „þótzt ætla að ganga úr skugga um, hvort meðöl Homöopathanna hefðu þann krapt, er þeir segja“; þetta mun vera öldungis satt, þegar það er tekið næmt eptir orðunum: Menn þykjast gjöra vel, það sem þeim sjálfum þykir og finnst í þann svipinn nógu vel og dyggilega gjört, þó það ekki sje það í raun og veru; þetta skyldi ekki hafa átt sjer stað hjá höfundinum. Reynsla hans gat verið með tvennu móti: annaðhvort hafi hann prófað meðölin sjálf eptir efnafræðisreglum, og þori jeg ekki að fortaka með öllu, að mögulegt sje að finna með þessum hætti, hvort það frumefni, er í meðalinu, sem því er gefið nafn af — hitt mun þar á mót alls ekki mögulegt: að dæma af þessari reynslu út af fyrir sig um það, hvort meðalið hafi þann lækningarkrapt, sem því er eignaður. Reyna mátti og smáskamtameðölin á sjúklingum, og með þessum hætti er ætlandi, að herra Hjaltalín hafi prófað þau af þeim, er hann dæmir kraptlaus og einskis nýt.

En þó honum hafi nú reynzt þannig eins og hann segir, þá gat margt fleira til þess borið en kraptleysi meðalanna; fyrst má vel vera, að hann hafi gjört þessar tilraunir fyrir löngu síðan, meðan bæði meðalafræði og læknisfræði „Homöopatha“ var á enn meira reiki en nú, svo ekki var auðvelt að fá áreiðanlega þekking á fræðum þessum, og hafi hann því ekki verið svo heima í þeim sem þurfti, því þó honum segist svo frá, að hverjum lækni sje innanhandar að nema fræði þessa á nokkrum mánuðum, þá getur þetta ekki skilizt nema um hina allra fyrstu undirstöðu, en ekki um neinn grundaðan lærdóm og gagnlegan, sem ætíð þarf með fram að upplýsast og leiðast af töluverðri reynslu. Og allir sem þekkja „Homöopathíu“ að nokkru, munu játa, að það sje opt eitt hið mesta vandhæfi, að velja hið eiginlega rjetta (specifiske) meðal við því og því sjúkdómstilfelli, sem fyrir hendi er; heppnist þetta ekki, verður tilraunin með hið einstaka meðal optar árangurslaus. Á þennan hátt getur það auðveldlega við borið, að ekki einungis viðvaningum, heldur og þeim, sem æfðari eru, mistakist algjörlega nokkrar tilraunir; það er þá eðlilegt, að sá sem áður er reyndur læknir, er annt um sjúklinga sína, og vill hjálpa þeim sem bezt og bráðast hann má, verði óþolinmóður, hugsi meðalið ónýtt, og gripi heldur til þeirrar lækningar-aðferðar

og þeirra meðala, sem hann er vanur og áður hafa reynzt honum vel, Já þess er varla von, að nokkur reglulegur læknir hafi þreyju eða samvizku til að gjöra svo margar og stöðugar tilraunir á sjúklíngum sínum með „Homöopatiskum" meðölum, sem nægi til að afla honum fullrar og fastrar sannfæringar, meðan hann hefur líklega von um að geta bjargað þeim með sínum eigin lækningarmáta; og eptir nú gildandi lögum er óvíst hvort honum er það leyfilegt. En er það þar fyrir rjett eða gætilega gjört, og hvernig sómir það vísindamanni, að lasta og fordæma öldungis fortakslaust þá fræði, sem hann má meðkenna, ef hann gætti sín vel, að hann er ekki búinn að þekkja nje reyna til neinnar hlítar, og sannað mun verða með tímanum að byggð er á kröptum og lögum náttúrunnar, sem menn hingað til hafa lítið þekkt eða notað frá þessari hlið?

það sem herra landlæknirinn segir: að innan um „Homöopathisku" meðölin finnist hinar verstu eiturtegundir, sem mesta hætta sje að gefa nokkrum manni inn, er auðsjáanlega lagað til að fylla þá með skelfing og viðbjóð á þessum meðölum, sem öllu trúa íhugunar- og rannsóknarlaust; en þetta er ekki svo hræðilegt, þegar allt er sagt eins og er. það er satt: sum af smáskamtameðölunum eru búin til úr eiturtegundum; en sje það „mesta hætta að gefa „nokkrum" manni þau meðöl,

sem þessar eiturtegundir eru í, þá hlýtur þessi hætta að eiga sjer stað, hver sem maðurinn er, sem fyrirskipar að brúka þau, og vera því meiri, sem stærri er skamturinn. En — finnast nú ekki allar eða flestar hinar sömu eiturtegundir, sem smáskamtalæknarnir brúka, innan um meðöl stórskamtalæknanna? Brúka þeir ekki skeiðvatn (acid. nitri), blásýru (acid. hydrocyanroum), völskupúður (arsenicum), kvikasilfurseitur (mercur. solubilis & præcipitatus), kransaugnaeitur (nux vomica, strychnin), svefnjurtareitur (opium, morphin) og margt fleira; og þetta í þúsund og þúsundsinnum þúsund tals stærri skömtum en smáskamtalæknar? — Af þessum og mörgum öðrum jafnskaðvænum eiturtegundum gefa stórskamtalæknar inn frá tuttugasta parti úr grani allt að heilu grani, og mikið fram yfir það, upp og niður eptir eiturmagni hvers fyrir sig, meðan smáskamtalæknar aldrei gefa af neinu ekki því saklausasta meðali yfir hundraðasta part mjög sjaldan yfir þúsundsinnum þúsundasta part úr grani og að öllum jafnaði miklu minna. Þetta veit hver sá að satt er, sem minnstu þekkingu hefur á tilbúningi og meðferð „Homöopathiskra“ meðala. Og þar eð það með fram mun vera þessi smærð meðalsefnanna í hverjum skamti hinna „homöopathisku“ meðala, sem leiðir herra Hjaltalín eins og marga aðra til að dæma þau „kraptalaus“,

þá hlýtur það að vera þvert á móti sannfæringu hans, er hann vill gefa mönnum í skyn, að það sje mesta hætta að gefa nokkrum þessi meðöl vegna eiturtegundanna, sem innan um þau eru. Að minnsta kosti hlýtur hann og hver maður að sjá, að sje það nokkur hætta að gefa þúsundsinnum þúsundasta part úr 1 grani, t. a. m. af völskupúðri, þá er það gífurleg hætta að gefa tuttugasta part úr grani af sama eitri, sem er talin einhver allra minnzta inngjöf stórskamtalækna, og þó fleirum sinnum á dag[1], ellegar gefa nokkurn tíma einum manni tvö lóð af „opium" á einni klukkustundu[2]. Hann kynni að svara: að hið litla eiturefni magnaðist fjarskalega í tilbúningi smáskamta meðalanna; enn þá lennti hann í mótsögn við sjálfan sig, er hann neitar því að kraptur frumefnanna í hinum eitursnauðu meðölum geti magnast að neinu með sama tilbúningi, þar sem hann dæmir þau gjörsamlega „kraptlaus og ónýt". Nei, hverr maður má vera óhultur um að smáskamtameðölin, fyrirskrifuð af gætnum og samvizkusömum manni, sem hefur látið sjer annt um að afla sjer nauðsynlegrar þekkingar á „Homöopathíu", og reglulega brúkuð, eru ekkert háskaskeyti, og allra sízt meira enn hin viðteknu meðöl, eins og reynslan

---

[1]) Sjá Djörups Haandbog i Pharmacologien, Kh. 1834, 1. Deel, Pag. 251.

[2]) Bibliothek for Læger, Kh. 1824, 1. Hefte, P. 107.

mun einnig í þessu tilliti bera þeim vitni um. — „Homöopathían“ er að vísu byggð á þeirri reynslu, að frumefniskraptur hvers meðals og eins hinna eiturkenndu magnist eða rjettara sagt ummyndist og verði smágjörvari við tilbúning þeirra, sem er uppfinning dr. Hahnemanns, er að vitni vina og óvina var á sinni tíð meistari í efnafræði, en reynslan sýnir líka, að þessi kraptauki gengur fram í öðru hlutfalli og verkar eptir öðrum lögum en inngjafarauki af frumefni meðalsins, svo enginn þarf að ímynda sjer eða mun reynast, að t. a. m. einn Homöopathiskur skamtur af þrítugustu kraptlosun (potenzirte decillion Verdünnung), eins grans af völskupúðri, eitri og skaði jafn mikið og eitt, auk heldur 30 grön af frumefninu.

Ekki vil jeg mæla því bót, ef satt væri, sem höfundurinn segir, að „Homöopathar“ skeyttu ekki um efnafræði, að því leyti sem þeir ættu kost á, og hún er þeim nauðsynleg, enn þetta er ekki trúlegt um þá „Homöopatha“ erlendis, sem eru vísindamenn, og hæglega geta fengið aðgang til að nema hana; og ekki getur það satt verið um þá, sem áður eða jafnframt því, er þeir lögðu sig eptir „Homöopatíu“, lærðu reglulega læknislist — enn þeir eru ekki svo fáir. — Það sem „Homöopöthum“ ríður mest á, er að meðalaefnin sjeu ósvikin og meðöl'n rjettilega tilbúin, og er líklegt að þeir af þeim, sem ekki hafa önnur ráð, útvegi

þó meðöl sín hjá þeim, er þeir hafa ekki með öllu ógrundað traust á, að bæði þekki rjett efnin, sem í þau fara, og ekki skorti kunnáttu nje ráðvendni til að búa þau svikalaust til eptir reglunum sem fyrir því eru; verða jafnvel allir læknar að eiga í þessu efni mikið undir lyfsölunum. Og hvað sem efnafræðisþekkingu læknanna líður, verður ætíð reynslan á því, hvaða áhrif meðölin hafa á sjúkdómana ólýgnasti votturinn um, hvernig bæði þau og læknarnir eru. Sú reynzla að „Homöopathisk meðöl hafa ýmist læknað, ýmist furðanlega linað marga sjúkdóma, og það stundum vonum fljótara, er það sem hefur hjálpað „Homöopathíunni“ til að ná þeim viðgangi, sem hún er búin að ná, hún er það, sem halda mun uppi höfðinu á henni framvegis, og sýna að hún er byggð á sannindum, sem aldrei verða rekin, þó þau eins og svo mörg önnur sannindi kunni að verða bæld niður um tíma með hinum alkunnu hervopnum ranglætisins, háði, hrekkvisi og ofríki.

En allt fyrir þetta er það ekki meining mín, að jeg mundi hafa láð herra landlækninum, þó hann sem umboðsmaður stjórnarinnar í þessari grein hefði viljað hafa auga á „Homöopathíunni“, og þeim, er með hana fara, og jafnvel koma henni undir umsjón sína og viðkomandi lækna, ef hann hefði gjört það á vísindalegan og mannúðlegan hátt. En þetta er ekki mögulegt, nema því að

eins að landlæknirinn og allir lögskipaðir læknar í landinu væru svo frjálslyndir og sannleikskærir, að þeir virtu „homöopathíuna“ og þá ávexti, sem hún ber, nákvæmrar og fylgislausrar athygli, leggðu sig sjálfir eptir að þekkja og nema hana að gagni, eins og gjört hefur einn af hinum beztu og duglegustu læknum vorum, og reyndu hana ásamt hinni gömlu, læknisfræði, og ljetu hana njóta sannmælis. Þegar svo væri að farið, virðist mjer bæði mætti hafa umsjón með að „Homöopathían“ ekki orsakaði óreglu, og undir eins haga svo til, að hún gæti tekið framförum og komið að töluverðu gagni, og það, ef til vill, bæði í „lifrarbólgunni“, og einstöku greinum af „holdsveikinni“. Jeg ætla landlækninum og öðrum læknum væri þá innan handar, og undir eins rjett og sómasamlegt að útvega eptir kringumstæðum einum eða tveimur mönnum í hverju læknisdæmi, sem annaðhvort hefðu lagt sig eptir „Homöopathíu“ og fengið góðan orðstír hjá almenningi, eða vildu leggja það fyrir sig og þættu líklegir til þess, leyfi hjá stjórninni til að iðka hana, þó svo að þeir skyldu standa í sambandi við hinn lögskipaða lækni, gefa honum þær skýrslur sem nauðsynlegar kynnu að vera til þess hann gæti haft eptirlit á öllum lækningum í umdæmi sínu, fengið að vita helztu sjúkdómstilfelli, sem þar koma fyrir, og að því leyti mögulegt væri, hvað helzt hefði gagnað til að lækna

þau. Undir eins og þetta getur, að mjer finnst, vel komizt saman við anda laganna og nauðsynlega reglu, virðist það og samkvæmara vísindalegu og þjóðlegu frjálslyndi og jafnvel almennings þörfum, að minnsta kosti meðan læknaskipun í landinu ekki stendur á betri fótum enn komið er, heldur en að fyrirlíta og fordæma blátt áfram þá uppgötvun, sem ekki er þekkt nje skoðuð til hlítar, er að ryðja sjer til rúms í öðrum löndum eins og nytsamleg fræði, hefur meir en í hálfa öld verið iðkuð þar af mörgum, þar á meðal nafnkenndum vísindamönnum og læknum, er gæddir voru allri þeirri menntun, skarpskygni og lærdómi, sem góðum lækni hlýðir, og komust af reynslunni til svo fullrar og fastrar sannfæringar um sannleik hennar og nytsemi, að þeir síðan vörðu til þess allri tíð sinni og kröptum að gjöra hana svo ljósa, fullkomna og áreiðanlega, sem þeim var mögulegt. Eða getur hitt verið rjettara, er það ekki neitt ísjárvert í því landi þar sem ekki eru nema 6 eða 7 læknar á 1800 □ mílum, læknisdæmin ill yfirferðar, og sumstaðar svo stór, að einum lækni væri opt ómögulegt, þó hann gæti hlaupið eins og tóa eða flógið eins og fálki, að vitja 10. hvers sjúklings, sem verulega þyrfti þess við, og ekki veitt svo mikið sem 5. hverjum neina læknishjálp, og það þó hann væri allur af vilja gjörður; — er það á þessum stað ekki neitt

ísjárvert að bæla niður og bægjast frekjulega við meinlausum tilraunum fáeinna manna að hjálpa vesælingum, sem annaðhvort alls enga eða sárlitla læknishjálp geta fengið, meðan enginn kvartar um, að þessar tilraunir gjöri sjer mein, en máske margir votta, að þær hafi veitt sjer töluverða líkn eða fulla meina bót? — Og hvernig lítur það út á þeim tíma, þegar allir þykjast unna eðlilegu frelsi, og láta sem sjer liggi í blóði og skinni að styrkja það af alefli; þegar öllum er leyft með lögum að trúa hverju, sem þeir vilja, og sjá fyrir efnum sálar sinnar, eins og þeir hafa vit á; — hvernig lítur það út að vilja á þessum tímum með bókstaf afgamalla laga, sem ekki eiga lengur við, kúga frjálsa menn þannig í líkamlegum efnum, að þeir skuli neyðast til að pínast og deyja hjálparlausir, megi hvorki leita sjer nje sínum líknar, þar sem þeim er mögulegt, og ætla sjer einhverrar líknar von, vilja jafnvel láta rífa meðölin úr höndum þeim, sem þeir voru búnir að fá, og ef til vill reyna sjer holl og hjálpsamleg? — Sje þetta sjálfu sjer samkvæmt, sje það þjóðlegt og frjálslegt, og skínandi

vottur um einskæra föðurlands ást, þá hlýtur það líka að mælast vel fyrir og verða þokkasælt hjá þjóðinni, og ætti hún þá sem fyrst að lýsa því opinberlega yfir, og votta þeim þakklæti sitt, er í hlut eiga.

O.

---

